# Kvædid

# Heimsspekinga=Skóli.

orkt af

Gudmundi Bergþórssyni.



Reykjavik.
Prentadur af Helga Helgasyni.
1845.

Lagid er: Dægra stytting skémta etc.

1. Þegar fólki er þannig vart,
ad þeinkja' ei uppá gaman,
tempraft mætti ad tala um margt,
týnt úr bókum saman,
andleg uppvakníng,
sem helgir bædi og heidnir menn,
hafa med útskýríng,
til vareygdar oss vitnad senn,
á veraldar breidum hríng.

2. Ásett hef eg ad efna ljód,
ef audnan vill ei banna,
um spakmæli fögur og fród,
frægstu spekínganna,
naudsynleguft nú;
einföldum, til lærdóms létt,
lesist ræda sú,
í 18 greinum samansett,
svo þad merkir þú.

3. Um týd og Gud vorn greina skal,

godin og manninn líka,
sálu speki svoddan hjal,
og samvitskuna ríka,
réttvísi audmýkt enn,
um dygdir tala, dramb og stjórn,
og dómara' login tvenn,
ríkdóm ágyrnd, fasta fórn,
feigd og eilífd senn.

## Fyrsta grein um tímann.

4. Greinin fyrsta talar um Tíd,
tímans hefst því ræda,
lærifadirinn børnin blíd,
Bernhardus réd fræda,
og héldt af henni mest,
hún oss nú fyrir hendi stár,
hvar af tvennt því sjest:
hvad ypparleg hún er og klár,
en óvyrdist þó mest.

5. Hennar sómi þekkist þá,
þegar menn gégnum skoda,
ad vísu hvad hún verka má,
og velferdina stoda,
opt á ýmsan hátt,
aumt er ad vita eydist tíd,
óþarflega þrátt,

sem Herrann skamtað hefur þó lýð,
með hagan vísdóms mátt.

6. Hans almætti hefur til sett,
að hlutirnir allir skyldi,
með tíð og æfi tymgast rétt,
því temprun halda vildi,
loftið, lönd og sjór,
verkmeistari vyrdist hún,
í veraldar breiðum kór,
að jafna gróða um jarðar tún,
og jurta merki stór.

7. Ovidíus einn svo tér,
ekkért jörðin nái,
út að rétta af sjálfri sér,
sú nema tímann fái,
eins fer eðli manns,
vér vöxum bæði að vitsku og mennt,
því veldur tíð til sanns,
öllum sképnum er hún hent,
eins til sjós og lands.

8. Tíð framkvæmir efnin öll,
eydist flest á henni,
uppbyrjan og endíng snjöll,
eins og glasið renni,
mörgum þakknæm þó,
þó fyrir hana fæðumst vér,

fríd hún oss til bjó,
þá oss opt til þarfa skér,
það Gud undan dró.
9. Gjædskan hans hún géfur oss frest,
gott er slíku ad játa,
ad leidréttast og laga best,
lífnadarins máta,
þegar vér syndgum þrátt,
um nádarstund hans bidlund blíd,
býdur fólki sátt,
ef hefndi hann glæpa á hverri tíd,
hólpid yrdi fátt.
10. Gud minn nádi gódur þad,
gégndarleysid manna,
djarft sér margur dauda bad,
þá drýgdi glæpi sanna,
en hefnd fer eptir hørd,
annadhvert þá øblum vér,
eilífs lífs á jørd,
ellegar missum himnesk hér,
hjálpar medølin gjørd.
11. Fordæmdir í kvalanna krá,
kaupa ef tímann mættu,
vid sjálfan Gud ad sættast á,
svoddan kost ef ættu,
bjóda mundu margt,

þó veraldir hefdi þúsund þeir,
þaktar auds med skart,
bjóda mundu miklu meir,
mýnútu fyrir part.
12. Ekki fá þeir þetta þó,
því skyldir þú madur,
tímans medan tæp er ró,
tefja ekki gladur,
vid í heimi hér,
ei forsóma yfirbót,
því eptir daudinn fer,
verdi þeirra víti ljót,
til varnadarins þér.
13. Nú skal minnast aptur á,
athugaleysid manna,
hversu tímans heimskir gá,
og hyrda ei um hid sanna,
hvad ágjætur hann er,
þeir líta á þegar lidin er stund,
hvad lukkan ætlar sér,
sem fugl sé sloppinn fagur úr mund,
og fæst ei veiddur hér.
14. Svo sem af boga fýsan fló,
eda fram hjá vatnid renni,
eptir mann þess ydrar þó,
ad ekki nádi hann henni,

tíd sem fyrr var tæp,
Sophides kvad sýnt óhapp,
sumra valda klæk,
þeim sem hnoss úr hendi slapp,
hljóta ad reka upp skræk.

15. Hvad mun valda heimsk mannkynd,
í hyrduleysis svíma,
anar fram sem augna blind,
og eydir nádar tíma?
svara eg sjálfur því:
engu ad kénna ødru er slíkt,
utan bernsku ský,
heims stjúpbørnin hilur ríkt,
er hjørtun slædist í.

16. Oforsóktur er sá, nær
ekkért gjørir þvínga,
smábørnum til leiks sem ljær,
lausa gullpenínga,
þau akta þá sem eir,
géfa hvørki ad gaum né ord,
þó glatadir hrjóti þeir,
undir fætur bekki og bord,
beidast slíks ei meir.

17. Þessu veldur þau eru úng,
og þekkja ei gullid hreina;
eins er skýlan yfir oss þúng,

athugaleysis meina,
tæka ad brúka tíd,
Gudi til lofs, en gá ei kýfs,
gagnsama fyrir týd,
en vér eydum lengd vors lífs,
líkt sem børnin fríd.
18. Sumir leita opt vid alls
æfi ad stytta sína,
med heimsins kjæti og svakki svalls,
seigjandi kosti fína,
vols og vellysting,
þeir rúsa líkt og ríki mann,
svo ráfi ei hugurinn kríng,
þad sem holdi þóknast vann,
þykir gjæfa slíng.
19. Mállaus dýrin mørg hver hér,
miklu betur sanna,
tækilegan tíma sér.
En tølu letíngjana,
minnist Salómon:
hyggid maursins haustverk á,
nær hægt blæs vedur tón,
vetrar bjørg sér safnar sá,
ad sultar fordist tjón.
20. Skógar músin allteins er,
ydin um sumar daga,

en athugaleysid oss sem skér,
yfir nam Drottinn klaga,
og seigir svo vid lýd:
storkurinn undir himni hreint,
hann veit sína tíd,
en turtildúfa og tranan beint,
nær tilkomuna eg býd.

21. En mitt fólk þó vill ei víst,
vita af Guds løgmáli,
hermir sá sem hefir oss lýst,
med hreinu kjærleiks báli,
þekkja ef kynni þjód,
hversu tídin heilnæm er,
hún þá þækti gód,
misbrúkast ei mundi hér,
med svo vondan hnjód.

22. Homerus sér óskar: ad,
arnar vængi bæri,
og flogid í þann fengi stad,
sem fyrir sín æska væri,
og nædi henni ad ná,
Ovidíus allt eins bad,
ad æfina hreppti þá,
sem ádur hafdi hann útlifad,
svo umbót mætti fá.

23. Gjætum ad oss Guds børn merk,

svo gjæfan ekki þrottni,
lifum vel med losleg verk,
leitum eptir Drottni,
hvern dag hédan af spakt.
Þetta skal svo talad um tíd,
sem til hafa hyggnir sagt,
til annarar greinar, eg svo skríd,
um edli Guds og makt.

## Önnur grein um guddóminn.

24. Hægt er oss vid hrannar lá,
af hafinu part ad líta,
en vídd og stærd ad vita þá,
vantar spekina ýta,
eda djúp þess allt,
gódur madur af gjørdum eins,
Gud þinn þekkja skalt,
fær þó einginn fult til neins,
frétt hans edli snjalt.
25. Heldur er hann í sjálfum sér,
samur og jafn einn andi,
yfirgripinn af engum hér,
alls óransakandi,
heimskt fyrir hold og blód,
Aristóteles heidni hátt,
hefur því uppá ljód,

um hans talad makt og mátt,
med mindug ordin fród.

26. Oendanlegt allt hvad er,
og ei hefir byrjan neina,
þegar slíkt í sjálfu sér,
sundur skulu menn greina,
komast þeir ei þar ad,
engum skynsemd er svo med,
ad yfirgrípi þad,
nema sá einn sem øllu réd,
í upphafinu stad.

27. Vér sjáum med von og trú,
vorn Gud hér í anda,
sem í skuggsjá nokkri nú,
nema hvad verk hans handa,
géfa oss gløgt á skyn,
líkt sem einhvør skjøldúng skír,
skrifi til sínum vin,
en opinberi ord hans dýr,
elsku teiknin hin.

28. Jardar grøs og allt hvad er,
almátt hans oss sýna,
vetrar kann ei heiptin hér,
med hørku neitt ad pína,
ad aptur vaxi ei øll,
blómstur=lauf og blødin smá,

bædi um dali' og fjøll,
sømu liti og farfa fá,
og fagran prýda vøll.

29. Valenus læknir svo hefir sagt:
sá sem vill hugleida,
skøpun minnstu sképnu spakt,
og skoda med umsjón greida,
hvad ágjætleg hún er,
skaparann mætti þekkja þann,
er þvílíkt gjørdi hér,
ad almáttugur einn sé hann,
sá edla vísdóm ber.

30. Hefur því sjálfur Ciceró,
sem í Róm var fordum,
af veraldar skøpun vænni þó,
svo vigtuglega med ordum,
sýnt oss samlíking,
ad einn Gud væri eflaust til,
sá aldar stjórnar hríng,
hljódar svo med skýrleiks skil,
skrifara glósan slíng.

31. Hvar þú kémur í húsid eitt,
og hentuglega sjer øllu,
skipad nidur og skraut tilreidt,
sem skart í kónga høllu,
þeinkir þú med þér,

ad ei hafi slíkt sig unnid sjálft,
einhvør hagur er hér,
gjørt mun hafa þetta þjált,
sá þrifnar høndur ber.
32. Hagar oss þannig heims um bý,
hér þegar inn vér reikum,
sem géstaherbergi annad í,
allt med hentugleikum,
þú kénnir kostulegt,
temprar loptsins tíma sól,
túngl og stjørnur frekt,
veit sinn gáng um vedra hjól,
og verkan fær svo þekt.
33. Eins er jørd med aldin trjám,
og edla blómstrum vænum,
skógdýr leika heilmørg hám,
hrýslum undir grænum,
en fénadur foldu á,
um loptid hafa fuglar ferd,
en fiskar um vøtn og sjá,
skaparans hønd er virdta-verd,
sem vandadi bygging þá.
34. Aristóteles einnin þad,
ord sín lét vidbæta:
skøpun hyggja skulum vid ad,
í skaparanum oss kjæta!

segir og Seneka:
í oss víst einn andi býr,
er heilagur sá,
íllt frá gódu edlis skýr,
allt sem greina má.
35. Neró illi, svo er sagt,
Simeon ad spurdi:
hvad er Gud? því veit þú vakt,
en vitríngurinn, sem furdi,
umbad eins dags frest
til umþenkíngar svaranna senn,
svo í té þad létst,
ad kvøldi speking aptur enn,
úrlausn skorti mest.
36. Um daganna tveggja dvøl þá bad,
ad dikta þenkíng snara,
en um sídir á hann kvad,
opt til krafdur svara:
þess meir sem nú þó,
fast ransaka fór eg slíkt,
fyrir mig myrkur dró,
vanskilníngur vex svo ríkt,
sem vædi' í djúpum sjó.
37. Gydíngur nokkur viltur var,
og vondsleg ord tillagdi,
gégn heilagri þrenníng þar,

þad ei møgulegt sagdi,
þrír ad irdu einn,
kátur stód þar kappi hjá,
kristinn trúar hreinn,
hann veik í burt sem vakrast má,
og var þá ekki seinn.

38. Hreina mundlaug hann tók þó,
hellti í vatni kláru,
ofan í lét þar ís og snjó,
inn sem hendur báru,
og fantinn frétti ad:
hvørt væri nú ekki vatnid eitt,
vott med þrí=skilnad;
Júdinn þessu játar greitt,
ad jafnast mætti þad.

39. Mundlaug þessa madurinn lét,
midt í varma standa,
brádnar mjøll sem hrídar hret,
hafdi kjælt ad vanda,
og vard ad vatni þá,
slíngur sídan slær því burt,
slæma Júdann á,
vøknadi haus á vondum furt,
svo vitkast mætti sá.

40. Epitetus einn svo tér:
med andagiftu ríka:

Guds þá fyllum vilja vér,
vorn hann gjørir líka,
mikill er milding sá,
breida jørd oss byggir hann,
búum vér þar á,
þegar vid sofum øllum ann,
andardrætti ad ná.
41. Plútharkus svo skírir skraf:
skal þad betur sæma,
Gudi ad vita ekkért af,
en illa um hann ad dæma;
ad mørgum gjøri hann mein,
eins og skárra er seggjum sagt,
sjónar missa stein,
en ad líta augum skakkt,
til alls í hvørri grein.
42. Hjálpadu þér sem faung til fær,
svo frelsar Gud þig líka,
svoddan gjøra sjómenn, nær,
sjá þeir hafsnaud ríka,
þeir kalla Kristum á,
leita í bænum lids til hans,
ad lending mætti ná,
en handa neita og hraustleikans,
hvørr sem orka má.
43. Eins sem ljósid enginn sjer,

utan af sjálfs þess ljóma,
Gud vorn þekt ei gétum vér,
né grunn hans leyndardóma,
nema hvad hefur hann
auglýst fyrir sitt ordid kénnt,
og anda heilagann,
sem frelsarinn Jesús fékk oss sendt,
ad fræda villtann mann.

44. Haltu oss vid hreina trú,
himna Smidurinn sterki,
svo satan engann sviki nú,
Sonar þíns undan merki,
ad gøfga godin blind,
margir hafa menn um heim,
magnad slíka synd,
greinin víkur þridja ad þeim,
í þessari kvedlíngs mind.

## Þridja grein um godin.

45. Afgudanna dýrkun djarft,
djøfullinn kénndi mengi,
Babels eptir byggíng snart,
brúkudu menn svo lengi,
ad þjóna mindum manns,
úr silfri, tré og gulli greitt,
gjørd voru til sanns,

Laban átti leir=goð eitt,
því leyndi dóttir hans.

46\. Mólok Gyðínga afguð einn,
út með réttum høndum,
í kallmanns mind var kopar hreinn,
kolum og eldibrøndum,
inní hann var hleipt,
glóandi svo gjørdist frí,
goðið sem holt var steypt,
feður børn sín færðu því
fórnar til með heipt.

47\. Í þess faðmi børnin blíð,
brunnu mørg til dauða,
svo ekki heyrdist emjan stríð,
af ópi þeirra nauða,
leikarar léku í kríng,
með hørpu tón og hljóðfærin,
hvella samstillíng,
kjætt hefir þánka satan sinn,
við svoddan héraðs þíng.

48\. Egyptsk þjóðin elska réð,
úlfa og krókódíla,
hafra, kétti og hunda með,
og hofin er gjørdu að skýla,
virdtu' og veittu prís,
ýms kvikindi augna skign,

og Indíaniskar mýs,
blótnautunum budu þá tign,
sem Belíal sjálfur kýs.

49. Vøldu til þess vildar menn,
ad vakta dýrin stóru,
á þeim gjæsum søddu senn,
er sodnar og steiktar vóru,
en þegar eitthvørt dó,
greftrad var og gésid til sé,
med gráti miklum þó,
fólkid syrgdi og féll á kné,
en fjandinn ad þeim hló.

50. Tólómeus Lagus lands,
lofdúngs þar med rádi,
uxa jarda einn til sanns,
uppá kosta nádi,
elli drapst hann í,
50 pundum silfurs senn,
sendi heims um bý;
gull kálfana gjørdu menn,
godinu eptir því.

51. Indía fólk í einum stad,
afgud lét sig villa,
djøfulinn sjálfan dýrkar þad,
dýrs med mind svo illa,
hann hefur kórónu hátt,

furdu mikil ferføld er;
flennist tanna gátt,
augnalagid illa fer,
med opnar nasir þrátt.
52. Skélfilegur allur er,
argur þessi dóli,
býdur offra blódi sér,
á bjørtum situr stóli,
Kapellu kóngsins í,
silfur klukku klerkur hans,
klíngir tóla frí,
logar þar jafnan ljós til sanns,
ljóma ber af því,
53. Klerkurinn hefur belti breidt,
bjøllum hladid ad líta,
á silfur skóm hann gengur greidt,
med glóandi hanska hvíta;
ó! hvad satan er,
fullur upp med dreiss og dramb,
dýrd ad eigna sér,
frelsi oss Drottinn flekklaust lamb,
frá hans valdi hér.
54. Í Fránkaríki er sagt ad sé,
sett í klaustri breidu,
mehar snikkud mind af tré,
menn hafa þar til reidu,

fórnir henni ad fá.
Appolló var afgud rétt,
ádur Grikkjum hjá,
en Rússland annar plágadi prett,
Pótollus hét sá.
55. Dagon nedan døkkur var,
digrum fiski líkur,
ad ofan manns mind á sér bar,
ad því skriftin víkur,
dýrkadur í Asdod.
Belzebub var Ekron 'í,
sem eitt sinn gjørt var bod;
Micha þóktist madur frí,
mindadi sér þó god.
56. Jeróbóam kóngur knár,
kálfa tvo af gulli,
gjøra lét í gédinu þrár,
hinn gudløstunarfulli,
en Akkab Baal bad;
ræktu Jóvis Rómverjar,
ríkir í sínum stad;
Babýloniskra Bel god var,
braut hann Daníel þad.
57. Sjáum hvørsu satan kann,
sjálfs Guds mind ad spilla,
varast skulum vér víking þann,

hann venur svo fólkid illa,
dreissugt Drottni frá;
í fjórdu grein þó heyrist hér,
hvad heimsspekíngar tjá,
hvørsu madurinn aumur er,
og æ sín skammast má.

## Fjórda grein um manninn.

58. Sólon vitri mælti um mann,
meistari spektar lista,
ad óklárindi ein sé hann,
í upprunanum fyrsta,
grant ef gjætt er ad,
besta medan ber hann líf,
bóla vatns er þad,
en eptir daudans endad kíf,
orma og madka spad.

59. Aristóteles seigir hann sé,
sannlegt eptirdæmi,
breiskleikans sem berst í hlé,
brøgdum vid þó kjæmi,
tíma og tídar rán,
ellegar herfáng æfinnar,
med óvíst gjæfu lán,
leikspil vøltu lukkunnar,
og lætst svo med þeim án.

60. Kénnt líkneski er hann og,
audnu valds á seimi,
einnig mørkud vigtug vog,
sem vegst á hér í heimi,
øfund reidi og eymd.
Láttu ei Drottinn lasta mín,
laun mér verda geymd,
døpur þar til daudans pín,
dymm er yfir mig streymd.

61. Ord þau taladi Archytas:
ad þeim vel mátt grunda,
þú mátt hafa þad vjes og vas,
sem viltu sjálfur stunda,
en aldrei þarftu þó,
ad vona, ad þad vinnist þér,
ad veida fisk úr sjó,
þann sem beinlaus allur er,
eins fer stundleg ró.

62. Hér í heimi einginn er,
einn svo happa gefinn,
ad sítvinnist ei sorgin þver,
saman vid lukku vefinn,
Ciceró svo fær tjád;
ódaudlegur einn Gud best,
út hefur dreist og sád,

sinni rænu medal mest,
manna um jardar láð.

63\. Valdi hann þá að vera enn,
verndara heimsins landa,
fyrirliða' og forsvars menn,
með frjálsum skilníngs anda,
heimsins hlaup að sjá,
að þeir kunni øllu því,
eptirfylgja þá,
háleitt var þeim hugvit í,
heiðnir menn svo tjá.

## Fimta grein um sálina.

64\. Enn með fljóta yfirferð,
svo ekki leiðist meingi,
að fimtu grein eg víkja verð,
og vita ef nokkuð feingi,
sagt um mannsins sál,
skikkanlegt svo skiljist þér,
sem skoða vilt þetta mál,
ódauðlegur andi hún er,
og ætti að vera forsjál.

65\. Aldrei sálir eldast þar,
Epimenelus sagði,
mun hann hafa þeinkt til þar,
þegar mann holdið lagði,

akur Drottins í,
skilst mér verdi úngleg önd,
útvalin og ný,
hvörsu leingi heims um lönd,
sem hraknings vard ei frí.

66. Svo er háttad seaja má,
sál manns og líkama,
eins og þeim sem lét sér ljá,
leiguhús til sama,
og einatt upp 'sig bar,
ad otur sillu eldist sinn,
ódýrri enn var,
veggir bædi veiklist inn,
og vidir trosni þar.

67. Eins hefur sálin um sitt hold,
ætíd nóg ad klaga,
sem er hennar hús á fold,
hérvistar um daga,
þar vantir víst umbót,
þó særist nokkud samvitskan,
synda fyrir rót,
ávallt kreinkja eitthvad kann,
auga, hönd eda fót.

68. Kannské daudinn komi þá ad,
og kalla til hennar mætti,
ad flytja sig úr fornum stad

fyrr enn von á ætti,
ellegar af mann veit,
sé hún þá til passa prýdd,
í Paradísar sveit,
holdsins bygging hrekst ei nidd,
heljar ofan í reit.

69. Sál er herra sérhvørs-manns,
þó setji sig hold á móti,
óvinir þad ebla hans,
svo yfirrádin hljóti;
en Gud gefi oss ad gá,
vitskunnar sem varnar best,
vondri heimsku frá;
í stefinu þad sjøtta sjest,
samtal máls um þá.

## Sjøtta grein um spekina.

70. Þeim sem settur yfir er,
annad fólk í heimi,
vísdóm meiri vita ber,
vil eg því ekki gleymi,
stoltir stjórnar menn,
því eins er munur ólærds manns,
og þess hyggna senn,
sem galinn hestur sé til sanns,
saman og altaminn.

71. Ei þó skólinn øllum sé,
sem eiga kénnslu ad vanda,
gjørdur til ad græda fé,
gott má af honum standa,
því sá sem opt vill sæll,
herra í æsku halda sig,
hvefsinn og ódæll,
ad vísu mun, þess væntir mig,
verda' í elli þræll.

72. Ungur madur einn var sá,
um skal dæmi lýsa:
djarfur vildi dreingur hjá,
Diogenes vísa,
koma til kénnslu sér;
meistarinn fyrst þad vita vill,
hvad vel lundadur hann er,
hvørt þoli sløg eda ordin ill,
ef ad á milli ber.

73. Reyna skal eg, vid sjálfan sig,
sagdi hinn vitsku ríki,
hvørt hann er, sem uggir mig,
í øllu soo mér líki,
þolinmódur þó,
ellegar stífinn stór og þrár,
stolltur géds um þró;

einn svínsbóg fékk aldurs hár,
úngum manni og hló.

74. Bad hann skyldi bóginn þann,
bera vel og leíngi,
eptir sér og hyrda um hann,
hvört sem ad þeir geingi;
en hinum ei huggnast það,
tók þó vid og taladi fátt,
tregt svo gékk af stad,
nokkra stund med bóginn brátt,
borgar vítt um hlad.

75. Kunníngjarnir hlóu ad hal,
og hvefsni margur sendi,
þoldi hann ekki þeirra tal,
og þeitti bóg af hendi,
en strauk í burtu strax,
Diogenes segginn sá,
seinna annars dags,
aldradur vid úngan þá,
ordum kom til lags.

76. Vasadu, son minn, velferdar,
veg þann sem þú gétur,
því okkur skyldi ekki par,
utan svínsbógs tetur,
kallt svo kvøddust þeir,
med asna høfudid upp úr því gékk,

hinn ýngri stála freir,
heppnast brædur hafa þeim rekk,
því heimskur margur deyr.
77. Plató seigir: haldist hér,
heimskur er sá madur,
sem þikkist ekki þegar hann er,
þúnglega ávítadur,
og metnast minnst vid hól,
Metolkes kvad føt og fé,
fást fyrir linna ból,
en vísdómurinn segir hann sé,
sá sem tídinn ól.
78. Sócrates þad telur tvennt,
til þess máttu hlýda,
betra enn nokkra bóka-ment:
ad bindast ills og lída;
fridur fávís mann,
skrautlegu líkur skipi er,
sem skridur sels um rann,
og slinna stafni í slæman ber,
sem slíngt ei stýra kann.
79. Carmides þeim Gríska gløgt,
gésid var svoddan næmi,
ad allt sem las hann eittsinn snøggt,
þó ymsar bækur kjæmi,
þegar kunni hann þad,

ofvís heita er ekkért vit,
einn hefir tilsvarad,
opt nú gamlir ydka rit,
en úngir feya blad.

80. Sócrates med sinnid blindt,
ad sjá fyrir augum vorum,
tuttugu og fjórar stundir innst,
stód í sømu sporum,
þúngum þaunkum í,
hann um sídir hóf upp mál,
hátt úr kafinu, því,
ad einn Gud sé sem ønnur sál,
ódaudleg, og ný.

81. Stóran mann og heimskan hér,
eg hrædist minna' ad reyna,
en hygginn þann sem allsmár er,
Antíopas nam greina;
en nú er ønnur naud:
eins er ad sjá og samvitskan,
sé í fólki daud,
sem hirdir um tenga heims í rann,
hlutina meir enn aud.

## Sjøunda grein um samvitskuna.

82. Setst hér inn hin sjøunda grein,
um samvitskuna ad ræda.

Spakir segja hún sé hrein,
haldin bestu gjæda,
fríheit foldu á;
Pariander kvad peninga tjón,
plágu minna ad fá,
heldur enn manns um hyggju frón,
hennar skada ad ná.

83. Diógenes talar og tjer,
ad tegund engin betur,
fríi mann frá hrædslu hér,
enn hrein samvitska gétur,
ef flekk ei med sér fann;
hvad dreyssugur sem annars er,
opt hún skélfir þann,
sem geymir hrekk í gédi sér,
því gést hvørn óttast hann.

84. Vond samvitska er verri enn sótt,
víst má þessa kénna,
því innan loga í fyrstu skjótt,
flest øll hús sem brenna,
er hún ein af þeim,
vítis kvølum vestu þó,
sem vara í ødrum heim,
stórsyndara styttir ró,
sterkari vitnum tveim.

85. Lifdú, segir Seneca!

sem sæi allar þjóðir,
orð þín, verk, og þánkar þá,
þeir séu jafnan góðir,
því ríktið rírna kann,
en samvitskan aldrei þó,
ærlegan svíkur mann;
að grein áttundu eg glósu dró,
gløggt sem dæmið fann.

## Áttunda grein um réttvísina.

86. Ræða skal um réttlætið,
sem Ritníng hrósar víða,
hvar finnst maki að hreinum sið,
heimsins bygðar lýða,
Natanaels nú?
hvörjum Guðs Son gaf þann prís:
góð er minníng sú,
að frómur væri og full réttvís,
með flekklaust skilníngs bú.
87. Eins finnst honum nú annar jafn,
eg eptir grundað hefi,
sem menn leiti upp hvítan hrafn,
með hreinu gyltu nefi
og klárum silfur klóm;
heiðnir betur ræktu ráð,
með réttvísinnar dóm,

en margir kristnir menn um láð,
því mínkar öldin fróm.

88. Valerianus keisari knár,
kjeröld rétt lét smíða,
vogir og stikur vitsku hár,
hann vildi ei annað líða,
hvörn sem hitti þar,
mælir nokkurn markaðan,
sem máta ei slíkan bar,
brjóta lét eður höggva hann,
en hönd af smiðnum skar.

89. Hermes einn í Egyptó,
þá eitthvað fór að kaupa,
sem að óðýrt selt var þó,
en sýndist meira hlaupa,
borgaði betur sá,
mest sem vert hans meinti trú,
svo mönnum drægi ei frá,
dauður er hann fyrir nokkru nú,
en nær skal makann fá.

90. Cató engan kjæran vin,
kunni svo að eiga,
að bragnar á því bæri skin,
að breyta mundi meiga,
hans réttvísi hót,
svoddan blómstur sjást ei nú,

sitja á hvørri rót,
baud sanngirni deydir trú;
Drottinn vinni oss bót!

91. Um Fabricíum mæltu menn,
sem mengid helgan kallar,
bágt svo væri ad benda enn,
bygd hans skilníngs hallar,
fast réttvísi frá,
likt sem sól ad hindra hér,
hlaupi sínu á;
haltu hvørn mann eins sem er,
en ad þér sjálfum gá.

## Níunda grein um audmýktina.

92. Níunda grein um audmýkt er,
og ágjætt lítilæti,
gott er ad vera af gódum hér,
gétin heims um stræti,
en þó er betra þad,
ad þú mætur sjálfur sért,
sjá þinn vidskilnad,
hald þig minna enn vyrdist vert,
vinur, í þínum stad.

93. Filippus kóngur maktar megn,
á Macedonía landi,
morgun hvern lét fast med fregn,

fyrir sér úthrópandi,
svein sinn svoddan tjá:
minnstu þess, þú madur ert!
milding jørdu á,
hofmenn skyldu heimsins bert,
hugsa um vísu þá.

94. Undirgéfnir erum vér,
audmýkt vel því sæmir,
sínum herra sérhvør hér,
sem oss kénni dæmi,
hundrads høfdíngjans,
sem lítilátur bad um bót,
bøls síns vinnumanns;
þar hefur dygdin fest sinn fót,
í ferils sporum hans.

## Tíunda grein um dygdina.

95. Í tíundu grein er talad um dygd,
til hennar skyldi oss minna,
hvørja nú um heimsins bygd,
heitir bágt ad finna,
øldum þessum á
falskan mann og hollan hér,
háttur skilur sá,
ad æra og vømm ei sitja sér,
saman í einni krá.

96. Diógenes segir: sá,
sem mest talar um dygdir,
en þær hefur engar þá,
er um hyggju bygdir,
líkur laungum hér,
hljódfærum sem hljóma brátt,
hreyst þegar vid þeim er,
ødrum skémta opt og þrátt,
en aldrei sjálfum sér.

97. Antistenes segir til sanns:
sveit þad teiknid þekki,
foreydslu síns fósturlands,
fólk nær gjørir ekki,
gildan greinar mun,
vondra og gódra á milli mest,
þad merkir gjæfu hrun;
en dreysugir med drambid vest,
draga sér engan grun.

## Ellefta grein um drambsemina.

98. Grein ellefa gjørir á skil,
gløggt sem hér má sanna,
hvad heimsspekíngar tøludu til,
tærilætis manna,
sem stoltir státa hér,
Aristóteles eittsinn sá,

úngan hal hjá sér,
med dreysdugt vidmót drambsamt gá,
en drussa svip þó ber.
99. Víst þess óska vildi eg mér,
væri og snild ad bera,
svoddan madur sem þú hér,
sjálfur þykist vera,
meistarinn mæla vann,
en óvinir minir allir bert,
illir géds um rann,
þvílíkt væri þú sem ert,
vér þekkjum landsvanann.
100. Í Athenuborg á Grikkja grund
gjörd voru løg þau fordum,
nær med hofmód nokkra stund,
nokkur af baugaskordum,
gøtum gékk þar á,
sektum hlaut ad svara tvist,
svo skyldi enn til gá,
1000 Drakkmas resla rist,
rádinu mátti fá.
101. Diógenes dreng einn sá,
sem dreysduglega var klæddur,
til hans spakur taladi þá,
tignar skrauti gjæddur:
skýrt ef skartar þú,

fyrir kallmønnum fríðum hér,
feil slær heimskan sú,
því aldrei biðlar ablast þér,
með ekta-skapar trú.

102. En skartir þú, sem skinjar mig,
skýrt fyrir úngum fljóðum,
að lýtist betur þeim á þig,
það er ekki af góðum,
hugsunum heldur gjørt,
að svíkja nokkra silki eyr,
sjálfum á þér bert,
því þú þykist miklu meir,
maður enn þú ert.

103. Menekrates læknir ljóst,
lét það á sér heyra,
dreyssugur með dramb og þjóst:
af dreingjum vildi ei meira,
þeim lið fékk lagt til sanns,
en undirgéfnir segist sér,
og sannir þrælar hans;
heiðran veittist geira grér,
sem Guði himna ranns.

104. Hví mun maðurinn vilja óvar,
volsa og mikið láta,
er hann veit sig ekki par,
orka í nokkurn máta,

gjæfu að gèfa sèr,
þó oflátúngarnir øðrum lýð,
æðri þykist hèr,
allteins sje eg í armóðs tíð,
auðnan með þá fer.

105. Háðúng það fyrir hygginn mann,
eg held í øllum greinum,
dreysúglega ef drambar hann,
af Drottins gáfum hreinum,
því Satan hóf þann sið;
ótukt, narra' og apa vjes,
enginn styggjist við,
sagði hinn vísi Sókrates,
sem sjeð hefur mannfólkið.

## Tólfta grein um stjórnina.

106. Í tólftu grein nú talað er,
til þess máttu hlýða,
um stillilega stjórnan hèr,
sem stórhøfðingja prýða,
fremur fanta sveit,
mannkostunum mest af skal,
og margskins herlegheit,
Agesílaus hóf það hjal,
hans eg orðin veit.

107. Keisari eda kóngur einn,
kostum þeim sé gjæddur:
aldrei vid sinn óvin neinn,
óttasleiginn né hræddur,
en frómum fylgi lýd,
sparsamur má vera víst,
og var í lukku tíd,
í fjórda máta forsmá síst,
full gód rádin blíd.

108. Isocratem heldur hann,
frá hinum þekkjast mætti,
fyrir þau manndóms verk sem vann,
vanur sparsemdar hætti,
sem sjóli gjæddur sé,
en kræsíngum ekki í,
eda sællífi,
stjórn má kalla þessa því,
þrældóm skínandi.

109. Chrýsippus hinn spaki spakt,
spjallar af vísdóm sínum:
gét eg ei stjórnar girnst því makt,
ad Gudi misþóknast mínum,
ef hún illa fer,
en gángi til sú valdstjórn vel,
vondir reidast mér,
vandaminnst því víst eg tel,

ad vera sem adrir hér.
110. Undirsátar øfunda lán,
yfirvaldsins stundum,
þykjast géta allt þess án,
og ótal verdslad pundum,
ef svoddan veittist sér,
einginn betur kénna kann,
hvar kreppir skórinn þver,
heldur enn sjálfur þú sem þann,
þrátt á fœti ber.

## Þrettánda grein um dómara.

111. Í grein þrettándu géfst til sanns,
gløggt þar um ad skrafa,
hvad dómararnir lýds og lands,
lærdir eiga ad hafa,
af fjórum dygdum flest:
gudhrædslan er ágjæt ein,
og réttvísi best,
frekt ágirndar fordist mein,
en fylgi sannleik mest.
112. Þeir þrír hlutir dimmast djarft,
dómarans augu blinda:
vinskapur med elsku art,
og óvild til mannkynda,
sjálfsgagn þridja þó,

því er løgum þíngs úr sal,
þrálega fleygt á sjó;
meir enn hér um mæla skal,
margur að því bjó.
113. Jósafats var játníng nett,
Jórsala kóngsins forðum,
að dómurinn væri Drottins rétt,
djørfum bauð með orðum,
vel að vanda hann,
þeim sem yfir leiddu løg,
landsins almúgann;
valdsmenn skyldu vorir mjøg,
vera nú eins og hann.

## Fjórtánda grein um løgin.

114. Í fjórtándu eg fæ þó grein,
fyrst af því að skýra,
hvað lýðir hafa løgin hrein,
lagt í vyrðíng rýra,
ýmsum løndum á,
ekki síður um ísa=frón,
en þeim Grísku hjá,
meistarinn hefur sett fyrir sjón,
samlýkíngu þá.
115. Eins eru løg eg kalla kann,
og kóngulóar vefur,

smáfuglunum heldur hann,
en hinum stærri géfur,
rúm ad ráfa í gégn,
þau klippa opt med klemmum tveim,
kotbóndann og þegn,
en stórhøfdíngjar þrykkja þeim,
þrálega yfir megn.

116. Athenu borgar íllir menn,
Alexandrum spáka,
sveltu í hel fyrir svoddan enn,
hann sagdist yfir þeim vaka,
løg med geisi gód,
en þau fyrir sín vondu verk,
vanbrúkadi þjód,
opt hafa þvílík ordin merk,
aukid fleirum mód.

117. Plútarkus kvad mætara mjøg,
mønnum vera fríum,
ad efla gømul og ydka løg,
en auka mørgum nýum.
Keisari Neró knár,
løgmál besta lýdnum gaf,
sem letrin herma klár,
en lifdi vest þó øllum af,
argur og lyndis þrár.

118. Lángtum best eg løg þau tel,
lands í bygdum skarta,
innskrifud sem eru vel,
á yfirvaldsins hjarta,
hollri hegdan í,
og útbreidast fyrir utan kíf,
aldurs daga, því,
þeir eiga ad hafa audkénnt líf,
sem ødrum stjórna frí.

119. Heidarlega ad haga sér víst,
hvør svo laganna njóti,
stødugir, en setjast, síst,
sannleikanum á móti,
sparsamt þakklátt þel,
bakstytturnar fordist framt,
fanta og narra vél,
hvørs manns smjadur hata samt,
hagfellt þeim eg tel.

## Fimtánda grein um ríkdóm.

120. Grein fimtándu géfa á skil,
gjarnan nú eg skyldi,
um ríkdóm fellur rædan til,
rétt því margur vildi,
sem eignast mikinn aud,
hvørjum manni heidrast af,

og hafa læst aungva naud,
meistarinn fyrst þá minníng gaf,
ad mold sé jardar snaud.

121. Diógenes dikta vann,
djarst med ordum snjøllum,
um rétt velbúinn ríkismann,
sem rír er ad mentum øllum,
en umvefst orma bed,
sem gersisfalleg gémlíngs kind,
gylltu reifi med,
því bædi er vitskan búníngs mind,
betri enn skraut og fjed.

122. Þó purpura júnkur sitji í sál,
og svelti úti hinn armi,
meiri er sæmd ad hyggnum hal,
í hreinum vadmáls garmi,
en fanti í fløiels kjól,
nóg má ríkur seigjast sá,
sem svalt ei par né kól,
og lét sér nægjast lukku þá,
sem lánast undir sól.

123. Opt hefur drussa ósnotran,
audurinn prýtt á veldi,
fyrir alþýdu forgylltan
en fátækt margan hreldi,
sem betri listir bar,

ríkdómur fyrir heimskan haus,
helst án skinsemdar,
er sem blakkur beislislaus,
bágur medferdar.

124. Lifir þú, segir Seneka!
sem þín girnd ad víkur,
ad vísu máttu vita þá,
þú verdur aldrei ríkur,
en alist æfin hér,
eptir náttúru þinni því,
þørf sem rétt til er,
fátækt ei þú fellur í,
fullvel trúdu mér.

125. Hefur Gud svo hagad því til,
heims um vídar grundir,
ad þrennslags skyldi þjód med skil,
þrýfast sólu undir:
reisugir ríkismenn,
og fátækir adrir þó,
og þurfandi senn,
medal fjórdu mest í ró.
mammon bídur enn.

126. Audur heims er ordinn nú,
afgud meir enn fjandi,
hann svíkur opt frá sannri trú,
sálir óteljandi,

mørg eru dæmin mest,
þessu veldur ágyrnd ørg,
og athugaleysid vest,
fyrir stundlegri ber þó bjørg,
búksorg øldin flest.

## Sextánda grein um ágyrndina.

127. Í grein sextándu sest hér inn,
sýnt med fæstum ordum,
hvad ótérleg sé ágyrndin,
sem allir hyggnir fordum,
løstudu í heimi hér,
Seneka hefur mælt um mann,
sem mjøg gýrugur er,
ad soltnum líkist hundi hann,
sem hripsar allt ad sér.
128. Frekleg ágyrnd fullvel kann,
ad fylgja hverjum eirir,
ástin eykst vid ábatann,
þá audinn saman keyrir,
mammons vinurinn mest,
þess ríkari þjódum hjá,
því kargari ljetst,
elstur þegar sannast sá,
sínkur allra vest.
129. Snaudan vantar margt hvad mann,

en ágjarnan allt hvad hann,
eiga þarf og kallar,
fé gjørir frænda róg,
audugur þykist opt af seim,
aldrei ríkur nóg,
þó klenódíum og kólgu eim,
komi hann ekki í lóg,
130. Aristippus laus vid last,
líf sitt med því vardi,
ad gullsjód sínum fleigdi fast,
flausturs út af bardi,
og ordum fékk svo ýkt:
dælt er betra eg drekkji þér,
djúpid ofaní ríkt,
heldur enn brádt þú banir mér,
þó brenni í mørgum slíkt.
131. Speking þessum vitra var,
víst med ordum køldum,
eitt sinn bríxlad um þad þar,
af órækslunnar vøldum,
ad akur hans eyddist nær,
Aristippus svo med sann,
samsinnt þessu fær,
í andsvarinu útgaf hann,
athuga glósur tvær.
132. Fast er betra hann fordjarfist,

fyrir mínar sakir,
heldur enn ad eg dóyrdist,
yfir honum sem vaki,
fyrir hans skuld svo fljótt;
ødruvísi held eg hér,
hagar ágjarnri drótt,
sem fénu safna frekt ad sér,
fram í bana sótt.

## Seitjánda grein um tímann.

133. Í seitjándu eg vil grein,
athuga verdugt seigja,
hvad oss ritníng hermir hrein:
hljótum vér ad deya,
allir eitt sinn víst,
nær daudinn klappar dyrnar á,
dvelja fær mann síst,
veraldar hyggja vond og flá,
í výl fyrir mørgum snýst.
134. Heidnir hafa betur beint,
búist vid sínum dauda,
en kristnir nú sém kénna hreint,
hvad krøptug lækníng nauda,
ordid Drottins er,
falsi og løstum fyrri menn,
fordudu; betur sér,

náttúrunni ofbaud enn,
hvad eptirkomandi skér,

135. Í Egyptalandi einn sá var,
afbragds sidur fordum,
nær géstabodin gjørdust þar,
med gledskaparins ordum,
þeir vøldu víst til mann,
med dauds manns mýnd í hendi hljóp,
hvørjum sýna vann,
innhýsingi í þeim hóp,
og svo taladi hann.

136. Einn og sérhver eg þess bid,
et og drekk þú madur,
skodadu til og skémt þér vid,
skøpun þessa gladur,
því eptir daudann eins,
vita máttu ad verdur þú;
vildu runnar fleins,
med kappi slíku kefja nú,
kvídann bana meins.

137. Um dauda jafnan þeinktu þinn,
og þann uppmála skyldir,
í hugskotinu hvørt eitt sinn,
ef hraustur deya vildir,
Seneca seigir þad,

Agústus nam óska sér,
opt skrifari og bad,
ad gódan mætti hljóta hér,
heimsins vidskilnad.

138. Xerxes vildi ei heyra hót,
hjalad um daudann manna,
en Agog þóktist aptur á mót,
øruggur helstund kanna,
er Samúel sundur sneid;
Aristóteles andláts tíd,
einatt fyrir kveid,
seigir daudinn sé hjá lýd,
sú grimmasta neyd.

139. Huggun vissu ei heidnir þó,
hjartans kvída ad stilla,
svo sem lýsti Ciceró,
sjálfs hans efi og villa,
um andar ódaudleik.
Gudi sé lof sem gaf oss skin,
á grænni lífsins eik,
sem vínkvista sér valdi kyn,
med visin laufin bleik.

140. Þad er ljóst ad vitum vér,
af vottan Heilags Anda,
aungva daudinn orku ber,
útvøldum ad granda,

þó svipti fjöri um sinn,
til lífs eilífs þá lángar þrátt,
og leidast svo þar inn,
sem heimsins vinir hirda um fátt,
Hjálpa oss Drottinn minn!

141. Ogudrœknir eiga sér,
aungvan verri enn dauda,
vidsjáls grip í heimi hér,
því hann er upphaf nauda,
athugalausum eitt,
til Satans alla sendir þá,
sem hann gétur veidt,
og ekkí í trúnni falla frá,
en fyrr hafa illa breytt.

142. Drottinn Gud mig vara vid,
víst á hvörjum deigi,
ad láta af illum synda sid,
svo mér daudinn eigi,
géti grandad par,
í andlátinu eru tvær,
eptir brautirnar,
víst ójafnar vyrdast þær,
og vara til eilífdar.

## Atjánda grein um eilífdina.

143. Stef. átjánda gjörir á grein,

grunda rædu mína:
tímalaus mun eilífd ein,
øllum mønnum sýna,
hvad Herrans makt er há,
blessud lætur børn sín hann,
búa himnum á,
en vondum steypa í kvalir kann,
þeir komast þar ekki frá.

144. Þeinktu sál mín þar um nú,
á þessum nádartíma,
hørmulega hlýtur þú,
hrøkt frá Drottni rýma,
dóms á degi þeim,
adskilin sem Adams børn,
eru í flokkum tveim,
nema Jesús veiti vørn,
þá vinir hans kallast heim.

145. Guddóms þeirri grandar þjód,
grimdin ævarandi,
sem hrapar ofan í heljar glód,
þar hrekkvís plágast fjandi,
hørmúng sú er hørd;
hinir ljóma og leika sér,
á lifandi manna jørd,
um eilífd þá sem aldrei þver,
med elsku og þakkargjørd.

146. Alskyns gjædi endalaust,
eiga þar að vara,
vér upphefjum vora raust,
með vitrum engla skara,
svo klýngi saungur klár,
í Drottins er hvør dýrdar sal,
dagur sem þúsund ár,
útvøldum til yndis skal,
én engin fellir tár.

147. Lofstýr allir láta þar,
hjá lambsins stóli hljóma
Syni Guðs er syndir bar,
og síðan gjørdi oss fróma,
arf að eignast sinn,
trúar augum mínum með,
mæni eg þar inn,
svo hneigist til þín hugur og géð,
herra Jesús minn.

148. Vil eg því hjartans feigin frá,
frelsast heims ónædi,
í þínu ríki þig að sjá;
þau mér veittu gjædi,
fyrir þitt blessað blóð,
útskúfaðu ekki mér,
ofan í heljar glóð,

þó margt eg bryti á móti þér,
því miskun þín er góð.

149. Heilags Anda hjástod med,
hjálpi sálu minni,
til ad rækja gyrndar géd,
gjædsku eptir þinni,
medan eg hjari hér,
dáda góda daudastund,
Drottinn géfdu mér,
svo géti eg komist Guds á fund,
gladur þá hédan fer.

150. Þyki mér mál ad þagna um sinn,
á þessum átján greinum,
géfi þeim øllum grædari minn,
gledi í anda hreinum,
sem hér hafa vel til hlýdt;
fróda menn eg forláts bid,
þó falli kvædid lítt,
en úngdómurinn og einfaldt lid,
athugi málid nýtt.

151. Diktud þessi dæma skrá,
dregin af sagnar hjóli,
heitir svo sem heyra má,
Heimsspekinga-skóli,
nafn mitt nærri stár,
er þad kénnt vid engla gram,

og upphæd meýar fjár;
hafi sá þøkk er hródurinn nam,
og hendir ekki ad dár.

152. Himin, vindar, hafid, lønd,
hædir, vøtn og eldur,
túngl og sól med teiknin vønd,
tempran allt hvad heldur,
dýrki Drottins nafn,
dropar grøs, sem dægur tvenn,
og dýrdlegt engla safn,
Amen segi allir menn;
engin er honum jafn.

---

